arðrændir og kùgaðir allra landa sameinist.

# VERKALÝÐSBLAÐIÐ



màlgagn einingarsamtaka
kommùnista (marx - leninista.)
1. tbl., 1. árg., apríl 1975

EFNI ÞESSA TÖLUBLAÐS ER M.A.:

## – ÚR VERKALÝÐSBARÁTTUNNI:
KYNNING Á BSL,
VÍSITALAN NÝJA
OG FLEIRA.

## – ÚR KVENNABARÁTTUNNI:
RÉTT STEFNA Í BARÁTTU KVENNA.

## – HVAÐ BER AÐ GERA?:
UM „VINSTRI" KOMMÚNISMANN.

## – GEGN HEIMSVALDASTEFNUNNI:
HVERS VEGNA EKKI UNION CARBIDE?
SOVÉTRÍKIN OG LANDHELGIN.



## – 1. MAÍ ÁVARP EIK(M-L).

# LEIÐARI.

**Verkalýðsblaðið.**
ÚTG.: OKTÓBER-FORLAGIÐ,
PÓSTHÓLF 541, AKUREYRI.
VERÐ: LAUSASALA KR. 50-, ÁRSÁSKRIFT KR. 250-
ÁBYRGÐARMAÐUR: H.Þ.ARNÞÓRSSON.

## HARÐNANDI STÉTTABARÁTTA.

Samkvæmt framfærsluvísitölu hefur framfærslukostnaður meðalfjölskyldu hækkað um rúmlega 25 þús.kr.á mánuði miðað við tímabilið sept.-ferbr.sl.. Í raun er lífskjaraskerðingin meiri,svo ekki sé talað um á öllu tímabilinu síðan vísitölubætur voru afnumdar með lagaboði.Þessum gífurlegu fjármunum er rænt frá vinnandi alþýðu og veitt til atvinnurekenda með dyggri aðstoð kratabroddanna í forystu ASÍ.Vinnandi fólk er látið borga kreppu auðvaldsins - kreppu,sem stafar m.a.af stjórnleysi og arðráni auðvaldsins.

Á slíkum tímum berst verkafólk og láglaunahópar í bökkum.Fólk getur reynt að halda í við verðbólguna með auknu vinnuálagi,meðan vinna fæst hjá eigendum atvinnutækjanna.Og við svona aðstæður tekur skrifræðisklíka ASÍ sér samningavald og útkoman er "láglaunabót" uppá 4900 kr.mánaðarlega til þriggja mánaða.Um leið elur hún á ótta fólks við atvinnuleysi,mjálmandi um "greiðsluþol atvinnuveganna".

En atvinnurekendur láta kné fylgja kviði.
Þeim dugar ekki kaupránið og kjararýrnunin.Uppsagnir og eftirvinnubann fylgir í kjölfarið.Ýmist eru stéttvísir einstaklingar reknir fyrir"kjaft" eða konum sparkað,sbr.Norðurstjörnuna í Hafnarfirði.Vísitölufalsanir eru í aðsigi og sameiginleg tillaga "vinnuveitenda" og ASÍ-broddanna um breytingar á vinnulöggjöf mun ná fram að ganga ef barátta vinnandi alþýðu kemur ekki í veg fyrir þessa skerðingu á verkfalls- og samningsréttinum.

Í kjölfar kreppunnar fylgir harðnandi stéttabarátta,þar sem verkafólk, sveitaalþýðan og allur þorri vinnandi fólks sameinast gegn atvinnurekendum, auðhringum SÍS og Sölumiðstöðvarinnar ásamt ríkinu ofl.
Nú þegar sjást merki þessa.

Nokkur verkalýðsfélög felldu smánarsamningana, mörg stéttarfélög hafa sent frá sér harðorðar viðvaranir til ASÍ-svikaranna og heimtað fullar verðlagsbætur á laun,t.d.Alþýðusamband Norðurlands.Baráttusamtök launafólks hafa verið stofnuð á Akureyri.Gleðilegast af öllu er þó að sjá samstöðu alþýðufólks með félögum sínum á Selfossi,sem nú eiga í hörðu verkfalli gegn valdníðslu atvinnurekendans.

Harðnandi stéttabarátta setur vinnandi alþýðu jafnt sem kommúnistum mörg verkefni.Fyrir verkalýðsstéttina í heild og bandamenn hennar er hvað brýnast að ná fullum lífskjarabótum og endurreisa stéttarfélög sín sem baráttutæki,víkja burt svikulli og duglausri forystu,því það er aðeins alþýðufólkið sjálft sem bjargar eigin málum í höfn.

Stéttvíst fólk og kommúnistar geta og verða að leiða þessa baráttu,vakið hana og örvað.Í þess konar baráttu er annað höfuðhlutverk kommúnista fólgið - hitt er að leggja hugmyndafræðilega og skipulagslegan grunn að framverði baráttunnar - nýjum marx-lenínískum kommúnistaflokki.Hann getur aðeins orðið að veruleika ef þess er gætt að tvinna saman fjöldabaráttu og skólun.

---

EIK(m-l) hafa barist fyrir því,að aðalmarkmið baráttuaðgerða 1.maí n.k. yrði barátta gegn stéttasamvinnunni,ASÍ-forystunni og leiðtogum atvinnurekenda þ.e.einokunarkapítalistunum.Þau hafa lagst gegn því að 1.maí væri gerður að "einkadegi" kommúnista með slagorðastefnu,sem tekur ekkert tillit til aðstæðna og pólitískrar vitundar alþýðu.Þau hafa lagst jafnhart gegn því að "samfylkja öllum" samfylkingarinnar vegna á kostnað vænlegrar baráttulínu fjöldaaðgerða,þannig að í kröfugöngu yrðu t.d.andstæð kjörorð eins og Fylkingin krefst.Þegar þetta er ritað er ekki ljóst hvort viðræður leiði til þess að EIK(m-l) taki þátt í Rauðum framverði með KSML eða Einingargöngu með námsfólki,Sósíalistafélaginu,Rauðsokkum ofl.Breið samfylking er skilyrði,sem og barátta gegn stéttasamvinnu,gegn alþýðufjandskap heimsvelda á borð við Bandaríkin og Sovétríkin,gegn auðhringavaldinu,fyrir sósíalísku Íslandi.

20.4.

# ÚR VERKALÝÐS-BARÁTTUNNI



BARÁTTUSAMTÖK LAUNAFÓLKS Á AKUREYRI.

Vaxandi starfsemi -55 manns á baráttufundi.

Í byrjun mars voru formlega stofnuð á Akureyri Baráttusamtök launafólks, BSL, en til þeirra var stofnað uppúr "Baráttugöngu 1.maí" á Akureyri í fyrra. Eftir stofnuna hafa þau m.a. beitt sér á sambykktarfundum um samningana, gefið út eitt dreififirit og síðast haldið almennan fund um stöðuna í verkalýðsmálum að afstöðnum samningum- og ráðstafanir verkalýðssinna hér í bæ. Á fundinn mætti 55 manns. Þar voru fluttar ræður, söngvar og síðan almennar umræður. Ræður fluttu Guðbrandur Magnússon prentari og Kolbeinn Friðbjarnarson formaður verkalýðsfélagsins Vöku á Siglufirði, sem var aðal ræðumaður. Ræddi hann verkalýðsmál almennt í þjóðfélagslegu samhengi; sögu og hnignandi baráttu íslenskrar verkalýðshreyfingar og möguleikana á að efla hana í ný. Taldi hann stéttafélögin mikilvægasta starfsvettvanginn fyrir stéttarlegt fræðslu- og skipulagsstarf verkalýðssinna. Vék hann svo að nýafstaðinni samningagerð og fordæmdi starfsaðferðir Alþýðusambandsforystunnar og uppgjafarstefnu og greindi frá tilraunum baráttufúsari stéttarfélaga úti um land til að losna undan miðstjórnarvaldi hennar. Var máli hans mjög vel tekið. Almennar umræður urðu á eftir og ríkti í höfuðatriðum eining um hin brýnustu baráttumál og heildarstefnu gegn stefnu og starfsaðferðum ASÍ forustunnar. Helsti andmælandi þessa var Jón Ingimarsson formaður Iðju, félags verksmiðjufólks(og einn úr hinum mislita hópi Alþýðubandalagsfólks í verkalýðshreyfingunni hér.) og hlaut fyrir ákúrur.

Sambykkt var svo eftirfarandi ályktun einróma:

Fundurinn fordæmir stefnu og starfshætti ASÍ-forystunnar og níumannanefndarinnar, sem birtist hvað skýrast í nýgerðum kjarasamningum.

Samningarnir sýna okkur að ASÍ-forystan semur ekki á grundvelli þarfa verkalýðsstéttarinnar, og leggur auk þess blessun sína yfir kjararánslög ríkisvaldsins, sem gert hafa að engu gerða samninga,-- undir því yfirskini að verið sé að fresta afgreiðslu málanna.

Samkomulag ASÍ er algjör uppgjöf fyrir stéttarandstæðingnum- atvinnurekendum.

Fundurinn bendir á að það fámennisvald, sem verkalýðsforystan hefur skapað með ólýðræðislegum vinnubrögðum hefir lamað afl verkalýðshreyfingarinnar. Með harðnandi árásum atvinnurekanda og ríkisvalds samfara dýpkandi kreppu eykst þörfin á að verkafólk skipuleggi sig sjálfstætt, á vinnustöðum, í verkalýðsfélögum og í samtök eins og "Baráttusamtök launafólks," sem stefna að því að byggja upp aftur sterka verkalýðshreyfingu, undir vígorðinu stétt gegn stétt, verkalýðsstétt gegn atvinnurekandastétt..

Fundurinn hvetur verkafólk um land allt til að koma í veg fyrir sambykkt nýrrar vinnulöggjafar, sem atvinnurekendur og ríkisstjórn þeirra eru nú að semja.

Auk þessa ályktaði fundurinn um stuðning við verkfallsaðgerðir á Selfossi og frelsisöflin í Suður- Vietnam.

Starfsgrundvöllur BSL.

Á hvaða grundvelli starfa svo BSL og hver er stefnan? Í stefnuskrá, samþykktri til bráðabirgða segir m.a. :" Hlutverk samtakanna, BSL, er að sameina og skipuleggja í samtök andstæðinga stéttasamvinnastefnu meðal félagsmanna stéttarfélaga og aðra fylgjendur baráttustefnu í verkalýðsmálum. Grundvallarmarkmið BSL er að endurreisa stéttarfélög svæðisins sem baráttutæki í kjarabaráttunni. Áður en náð er þessu marki setja BSL sér annars vegar að knýja sem mesta baráttu og umræðu inni í stéttarfélögin og hins vegar að skipuleggja á hlið við félögin fjöldabaráttu gegn vaxandi kaupráni og stéttarárásum atvinnurekenda og ríkis, og vinna baráttumálunum fylgi meðal almenns launafólks ".

Í starfshópum og á liðsfundum eru ákveðin helstu stefnumál og kjörorð

samtakanna á hverjum tíma. Og í gegnum útgáfustarfsemi, almenna fundi kröfugöngur o.fl. munu BSL stuðla að aukinni verkalýðsmálaumræðu og baráttu í verkalýðshreyfingunni hér. Lokaákvæði laga samtakanna er: Skipulagsgrundvöllur BSL er samfylking fólks af öllum pólitískum skoðunum, sem sameinast vill um þessa baráttustefnu í verkalýðs og kjaramálum. Þar hafa allir félagar jafnan lýðræðislegan rétt á að hafa áhrif á starf og stefnu samtakanna. Fólk sem áhuga hefur fyrir nýrri verkalýðspólitík leggur hér fram krafta sína samkvæmt kjörorðinu: Eining á grundvelli stéttabaráttunnar.

## Fundurinn markaði áfanga.

Fundurinn 13 apríl markaði raunar áfanga í skipulagningu baráttusinnaðra afla í verkalýðshreyfingunni á Akureyri. Í fyrsta lagi var hann fyrsta meiriháttar framtak er öfl þessi hafa sýnt af sér í upplýsingar- og skipulagsstarfi því sem fyrir höndum er, utan 1. maí. Í öðru lagi, sem er mikilvægast, staðfestir hann, að hér er að skapast og treystast sameiginlegur stefnugrundvöllur að allbreiðu samstarfi sósíalískra og verkalýðssinnaðra hópa, um að skapa verkalýðspólitískan valkost við ríkjandi stéttasamvinnustefnu. Samtökin njóta stuðnings frá m.a. EIK(m-l), KSML og mikils hluta Alþýðubandalagsfélagsins hér í bæ o.fl., og ríkti á þessum fundi eining í höfuðatriðum sem áður segir. Við minnum á að ófyrirgefanlegt er ef samstarfsgrundvöllur þessi er ekki þróaður og útfærður til eflingar baráttunni. Aðferðin er samfylking á hin brýnustu baráttumál.

Ak. 15 apríl 1975.

## BSL- ATHYGLISVERT FORDÆMI.

Vavandi starfsemi og sókn BSL er öllu framsæknu fólki óblandið ánægjuefni og hlýtur að vekja spurningarum hvort leið baráttusamtaka sem BSL sé ekki rétt og tímabært skref á fleiri þeim stöðum þar sem stéttasamvinna er ríkjandi í verkalýðsfélögum. Ótvírætt á baráttustefna í verkalýðsmálum marga fylgismenn. Það sýnir t.d. hin mikla þátttaka verkafólks í Reykjavík í 1.maí göngu Rauðrar Verkalýðseiningar síðustu ár. Rauða verkalýðseiningu átti reyndar að stofna sem samtök hliðstæð BSL. Sú tilraun, sem fleiri í sömu átt, hefur að því er virðist algerlega mistekist og er þar fyrst og fremst við forvígismenn þseea fyrirbæris að sakast, sem hafa með eindæma slysalegum vinnubrögðum og lúalegri pólitík reynst alþýðubaráttunni erfiður ljár í þúfu. Fordæmi verkafólksins á Akureyri er góður leiðarvísir að skipulagningu verklýðssinnaðra afla, svo í Reykjavík sem annarsstaðar.

## NÝ VÍSITALA.

Fyrir 1. maí ætla atvinnurekendur og stéttasamvinnupáfarnir í ASÍ að vera búnir að semja um nýja skipan vísitölu. Þetta er enn eitt dæmið um þjónkun páfanna við atvinnurekendur.
Vissulega eru vankantar á gömlu vísitölunni; ýmsum liðum eins og tóbaki og víni hefur verið kippt út, skattar hafa ekki verið reiknaðir með ( hvorki söluskatturné beinir skattar). Auk þess er vísitölugrundvöllurinn gamall, eða frá árinu 1968, síðan hefur neyslan breyst mjög, t.d. vinna fleiri konur úti og því er keypt mun meira af tilbúnum fatnaði og fullunnri matvöru, sem kemur því ekki af réttum þunga í gömlu vísitöluna.

Frá sjónarmiði verkafólks eru þetta þeir vankantar sem þyrfti að sníða af vísitölunni. Á hitt ber að líta aðísumu tilliti er vísitalan gamla mjög jákvæð t.d. hefur hún hamlandi áhrif á verðhækkanir, eins og verkafólk getur best séð á hækkanaskriðunni sem dunið hefur yfir síðastliðið ár, þegar engin vísitala hefur verið í gildi.

Morgunblaðið hefur reifað hugmyndir atvinnurekenda í þessu máli. Þær eru helstar:
1. að taka ekki nema af hluta af framfærsluvísitölunni inní Kaupgreiðsluvísitöluna,
2. reikna vísitöluna út tvisar á ári, í stað fjórum sinnum,
3. Taka mið af vísitölu viðskiptakjara (gagnvart útlöndum).
Þetta myndi aðeins gera vísitöluna að skollaleik. Ef við lítum á lið þrjú t.d. kemur í ljós að sá liður hefur "versnað" um ca. 30% á síðasta ári. Þó svo að hinir liðirnir tveir gætu gefið tilefni til hækkunar myndi þessi eyða þeim áhrifum. Öllum er ljós sú kjaraskerðing sem er fólgin í því að reikna vísitöluna út tvisar í stað fjórum sinnum á ári og að taka ekki nema hluta af framfærslukostnaðaraukanum inní hana.

Flogið hefur fyrir að verkalýðsforystan hafi hugsað sér að miða vísi-

töluna við þjóðartekjur. Þjóðartekjur miðast svo við þjóðarframleiðsluna, magn hennar og verð, svoleiðis að kreppuástand eins ognúna er, þegar framleiðsluvörurnar lækka á erlendum mörkuðum, hefði áhrif til lækkunar kaups, þannig að þarna er verkalýðsforystan búin að finna kerfi til að koma afleiðingum kreppunnar á herðar verkafólks, án allra bráðabirgðarlaga og inngripa ríkisvaldsins.

Verkalýðsblaðið vill hvetja allt verkafólk til að snúast gegn vísitölunni "nýju". Krefjumst þess í stað fullra áhrifa núverandi vísitölu, að grundvöllurinn verði endurnýjaður (neyslukönnun), að skattar verði teknir inn í vísitöluna og hún útreiknuð mánaðarlega, fellt verði niður prósentuákvæðið og sama krónutala greidd á öll laun. Vísitalan er eina trygging verkafólks fyrir bótum vegna verðhækkana.

++ Annar stór galli á vísitölunni er að allt kaup uppúr og niður úr hefur hækkað um sömu prósentu, þannig að sá sem hefur 100. þús. fær helmingi meiri hækkun en sá sem hefur 50 þús.

NIÐUR MEÐ STÉTTSVIKARANA.

Nýlegt dæmi um þjónkun ASÍ-forystunar við atvinnurekendur er "sameiginleg tillaga 16 verkalýðsfélaga" að kjarasamningi. Um er að ræða m.a. Áburðarverksmiðjuna, Sementsverksmiðjuna og Kísiliðjuna.
Samstarf á grundvelli félagsmanna sjálfra- samstarf verkalýðs á grundvelli stéttabaráttu er síður en svo forkastanlegt.
En lítum nú á. Um er að ræða frá 5-15% "launahækkun"tillögur og sérstaka skiptingu í launaflokka eftir starfsmati sem unnið er með "hag fyrirtækisins" fyrir augum, þ.e. auknum gróða fyrir sem minnstan tilkostnað.
Þetta kallast að berjast fyrir hag verkafólks! Og hverjir berjast saman? Starfsmatsnefndin er skipuð framkvændarstjóra Iðnþróunarsjóðs ( á að auka samþjöppun og hagræðingu í iðnaði), Yfirhagræðingameistara Vinnuveitendasambandsins og vikupiltunum Guðjóni í járniðnaðarmannafélaginu og Halldóri í Dagsbrún!
Þjóðviljinn (29.2) kallar þetta "merkan atburð í kjaramálum". Verkafólk í Áburðarverksmiðjunni hefur þegar lagt vinnu tvisvar niður á aukavöktum til mótmæla seinkun kjarasamninga - nú vantar aðeins að sem flestir úr hinum 16 félögum sameinist um að þvinga starfsmatið burt og ná samningamálum í eigin hendur - lýðræðislega kosnar baráttunefndir á vinnustöðunum

DÖNSKU ÞRÆLALÖGIN

Þeir voru drjúgir með sig í haust samvinnuaðilar atvinnurekenda í Sókn og Verkamannasambandinu eftir samninga sína við danska hreingerningakompaníið. Þrælarnir sem eru rígbundnir í bitlinga og stéttasamvinnukerfi atvinnurekenda leggjast flatir undir erlendan auðhring og undirrita smánarsamning, er ekki má einu sinni berjast gegn meðan á gildistíma stendur.
Þrælar skulum vér öll vera!
Samningarnir eru gerðir án samþykkta félagsfunda.
Í stað þess að skipuleggja baráttu gegn danska hreingerningafyrirtækinu og frysta það úti frá vinnuafli ver forystan samninginn.
Hun telur hann nauðsyn "ár því hleypa á fyrirtækinu inn í landið á annað borð" - því miður.
En þolinmæði láglaunakvenna og verkafólks í félögunum, sem eiga aðild að þrælasamningnum er greinilega að bila.
Mótmæli sjást í Þjóðviljanum og framboð var reynt gegn stéttsvikurum í Sókn. Að vísu voru baráttumálin ekki nægilega tengd afskiptum á stétta samvinnustjórn Sóknar eða nauðsyn samtakabaráttu almennra félaga - þannig að listinn náði ekki kosningum.
Samherjar í verkalýðsfélögum!
Hrindið ákvæði samningsins um bann við baráttu gegn honum á gildistíma - knýjið forustuna til að rifta þrælasamningnum.
Endurreisum stéttarfélögin sem virk og lýðræðisleg baráttusamtök í stéttabaráttinni.

## FRÁ ALÞINGISSÖLUM AUÐVALDSSINS.

Mitt í þeirri kjaraskerðingarholskeflu sem skollið hefur á verkafólki undanfarin ár, var þingsályktunartillaga frá Vilhjálmi Hjálmarssyni og Halldóri Kristjánssyni, um endurskoðun á vinnumálalöggjöfinni, borin fram.

Flutningsmenn voru fullir heilagrarvandlætingar yfir því óréttlæti sem yfirstétt landsins má þola við núverandi skipan þegar hópar verkafólks (verkalýðsfél.) geta brotist undan ASÍ-toppnum og hrekkt hana og pínt með furðulegum kröfugerðum.

Í tillögunni, sem borin var fram 1973 er gert ráð fyrir lengdum verkfallsfyrirvara, en hann er nú 7 sólahringar.

Meginefni hennar er að ASÍ verði einu veitt heimild til samninga við atvinnurekendur. Í þessari tillögu kemur fram ótti við verkalýðinn. Flutningsmenn vilja fyrirbyggja alla sjálfstæða skipulagningu verkafólks, jafnt innan landshlutaverkalýðssamtaka, einstakra verkalýðsfélaga, vinnustaða og hópa. Þeir vilja að uppkeypt verkalýðsforystan ráðskist með hag verkafólks - og ASÍ-forystan hefur lýst sig til viðræðna um tillöguna.

Í flest þau skipti sem alþingi og ríkisvald hafa fett fingur útí verkalýðsbaráttuna hefur það verið til að árétta betri stöðu atvinnurekenda. Með þessari endurskoðunartillögu sýnir sig, sem oftar, að ríkisvaldið er ekkert annað en tæki auðvaldsins, tæki til að vernda og auka réttindi þess og gróða.

VERKAFÓLK ! TÖKUM HÖNDUM SAMAN OG VINNUM GEGN ÁRÁSUM RÍKISVALDSINS Á KJÖR OKKAR.

## 1. MAÍ Á AKUREYRI.

Viðræður vm Baráttugöngu 75 á 1.maí á Akureyri hafa gengið allvel.

Baráttusamtök launafólks(BSL) áttu frumkvæði að göngunni. Henni verður skipt í 4 deildir. Af þeim er kjaramáladeild tilbúin.

Auk hennar verða pólitísk deild, kvennadeild og andheimsvaldadeild.

Innan BSL urðu allharðar deilur um kjörorðið "stétt gegn stétt", aðallega á milli EIK(m-l) og KSML. Lyktir urðu þær að við kjörorðið var bætt - "verkalýðsstétt gegn atvinnurekendastétt" og það tekið upp í gönguna.

Dæmi um önnur kjörorð eru :

"GEGN FÁMENNISVALDI Í VERKALÝÐSHREYFINGUNNI - SAMNINGANA TIL FÉLAGANNA"
"NIÐUR MEÐ ASÍ-BRODDANA - LIFI SJÁLFSTÆÐ SKIPULAGNING VERKALÝÐSINS"
"ENDURREISUM STÉTTARFÉLÖGIN SEM BARÁTTUTÆKI"
"GEGN ATVINNULEYSI OG VERÐBÓLGU - LÁTUM AUÐVALDIÐ BORGA"
"ENGA SAMNINGA ÁN VERÐLAGSBÓTA - SÖMU KRÓNUTÖLU"
"GEGN FYRIRHUGAÐRI SKERÐINGU Á SAMNINGS- OG VERKFALLSRÉTTI"
"BURT MEÐ SÖLUSKATT AF MAT"

Baráttugangan 75 er byggð á svipuðum grunni og í fyrra - hún er alvarleg hótun við ASÍ-broddana og atvinnurekendur. Enda fjölmennasta aðgerðin 1.maí á Akureyri. 2o.4.

------------

# ÚR KVENNABARÁTTUNNI

Tilefni þeirrar greinar sem hér birtist, er fyrst og fremst það að veita róttæku vinstra fólki einhverja innsýn í baráttustöðu kvenna í dag og sýna fram á nauðsyn þess að virkja konur til víðtækrar baráttu fyrir hagsmunamálum sínum með stuðningi allrar vinnandi alþýðu og svo leiðir til að ná konum saman um ákveðin baráttumál.

Að undanförnu hafa málgögn vinstri hreyfingar á Íslandi tekið til meðferðar í nokkrum greinum stöðu kvenna, núverandi baráttu þeirra fyrir hagsmunamálum sínum með skírskotun til stöðu þeirra í þjóðfélaginu og framleiðslunni. Greinar þær sem hér um ræðir birtust í 2.tbl.Stéttabaráttunnar, málgagn gagniKSML undir nafninu"Rauðsokkahreyfingin,efni til umræðu" og í 3.tbl. Neista málgagni Fylkingarinnar undir fyrirsögninni:Madamma-kelling.Mikil gagnrýni kemur fram í báðum þessum greinum á starfsemi og skipulag Rauðsokka hreyfingarinnar,sem einna helst hefur látið að sér kveða í kvennabaráttunni hér á landi undanfarin ár.Þótt margt sé hæft í gagnrýni fyrrnefndra blaða getur hún ekki talist fyllilega réttmæt.Rsh.er ásökuð um "smáborgaralegt eðli" og sambandsleysi við verkalýðsstéttina.Hvergi er þó minnst á hlutverk verkakvennafélaganna sem innihalda stóran hluta verkalýðsstéttarinnar eða leiðir til að fá þau til þátttöku í stéttarbaráttunni, heldur er kvartað undan ágangi svokallaðra femínista (kvenhyggjufólk-þ.e. þeir sem álíta karlmanninn höfuðandstæðing og því beri að berjast gegn honum fyrst og fremst). Ekkert bendir til að þessi samtök sem standa að fyrrnefndum málgögnum ætli að ráða einhverja bót á málefnum kvenna,ef til vill hafa þau bara séð sig knúin til að láta orð falla um stöðuna í kvennabaráttunni í tilefni KVENNAÁRS og væri það miður.Að loknum lestri þessara greina er maður engu nær um hugmyndir eða aðferðir sem þessi samtök hyggjast beita til að fá konur til liðs við sig í þeirri baráttu sem þaum álíta að verði að heyja sameiginlega af kynjum gegn sameiginlega óvininum ,nefnilega auðvaldsskipulaginu.Í grein Stéttarbaráttunnar er Rsh.harðlega gagnrýnd fyrir stjórnleysi sitt og sá dómur felldur um hana að hún eigi sér enga þróunarmöguleika. KSML álýtur að ekki geti komið til samstarfs við Rsh. á því stigi sem hún er á nú og því beri að móta einhverja bardagaaðferð til að fá konur inn í stéttarbaráttunna En bardagaaðferðin ,ekki verður hún mótuð á skrifborðinu heldur í gegnum baráttu og þá væntanlega kvennabaráttu.

Í grein Neista er kvenhyggju tilhneigingum Rsh. og annarra útlendra hreyfinga úthúðað, en jafnframt viðurkennt, að þó nokkur aðstöðumunur sé milli karla og kvenna,að kröfur kvenna séu víðfeðmari en sameiginlegar kröfur kynjanna, en þetta feli þó ekki í sér, að til sé sameiginleg kröfugerð og barátta fyrir allar konur.Auðvitað hafa ekki allar konur sömu hagsmuna að gæta því þær tilheyra mismunandi stéttum.Niðurstaða greinarhöfundar Neista verður því sú að leggja beri höfuðáhersluna á sameiginlega stéttarbaráttu karla og kvenna,því öðru vísi verði engum sigri náð fyrir konur.En í hverju er þá þessi aðstöðumunur karla og kvenna fólginn og hvað býðir að boða og hvetja til sameiginlegrar baráttu kynjanna ,þegar enginn hefur minnstu hugmynd um hvar og hvernig eigi að heyja slíka baráttu?Hvað eiga konur að gera ?Eiga þær að ganga í KSML eða Fylkingunna til að berjast fyrir málum sínum? Hvað hafa þessi samtök gert til að fá konur í lið með sér? Hvernig er tengslum þessara samtaka við verkakvennafélögin háttað?

## ÁSTANDIÐ Í DAG OG SAMEIGINLEGA BARÁTTAN.

Auðvitað væri æskilegt,að konur og karlar sameinuðust í stéttabaráttunni en við verðum að horfast í augu við þá staðreynd, að konur og karlar eru nú þegar aðskilin í verkalýðsbaráttunni og hafa verið í upphafi í sínum eigin félögum með fáeinum undanteknigum ein og í Iðju.Þar að auki hefur alveg gleymstað sinna verkakvennafélögunum og þau hafa verið vanræktaf öllum rót-

tækum vinstri hreyfingum. Því miður virðist ríkjandi mikið skilningsleysi á hinu raunverulega hlutskipti sem verkakonur búa við, sem því miður er mjög slæmt. Þær hafa ekki jafna möguleika á við karlmenn til starfs, launa, félagsþáttöku og atvinnuöryggis, og eru því mjög illa meðvitaðar um þjóðfélags - og stéttarlega stöðu sína og finnst þáttur þeirra annar og ekki eins brýnn og karla í stéttarbaráttunni. Þess vegna væri sú hætta fyrir hendi, ef karlar og konur yrðu sameinuð í verkalýðsfélögunum án mikils undirbúnings og upplýsingar, að konur lentu undir í slíkum félögum og að þær hreinlega afsöluðu sér allri ábyrgð yfir á herðar þeirra manna sem væru ríkjandi innan verkalýðshreyfingarinnar á hverjum tíma. Í viðtali við Jónu Sigurjónsdóttur, eina af stjórnarkonum starfsstúlfnafél. Sóknar í 1.maíblaði Rhs. 1973 segir hún um dræma þáttöku kvenna í störfum verkalýðshreyfingarinnar:

> "Konur hafa svo mikla vanmáttarkennd, sérstaklega ómenntuðu konurnar. Þótt þær veljist kannske til forystu í sínu félagi eru þær jafn niðurbeygðar gagnvart öðrum og þá líka karlmönnum í verkalýðsforystunni".

Af þessu ætti að vera ljóst að hið tvöfalda vinnuálag kvenna og vanmáttarkennd þeirrakemur í veg fyrir aðþær geti sinnt störfum sem og tekið virkanþátt í sínum eigin stéttarfélögum og tíminn sem þær hafa til að uppfræðast er nánast enginn. Því auk vinnudagsins hjá atvinnurekanda þarf konan að sinna daglegum þjónustustörfum á heimili. Augljóslega er allt orðagjálfur um sameiginlega baráttu kynjanna út í hött á meðan skilningur á hinu raunverulega ástandi er ekki fyrir hendi og lítið sem ekkert höfðað til verkakvenna í baráttuáróðri heldur einblínt á verkamenn. Mörg verkefni bíða okkar innan verkakvennafélaganna.

## Femínismi os sósíalismi í kvennabaráttunni.

Það er alveg rétt að tilhneiginga til femínisma hefur gætt í kvennahreyfingunni hér. Slíkt er afleitt, enda femínisminn borgaraleg stefna (upprunninn meðal amerískra miðstéttarkellinga) sem afneitar stéttarsjónarmiðum í baráttunni og spillir því raunhæfri baráttu kvenna. Hins vegar er ekki að undra, þótt femínismi eigi greiðan aðgang að konum, sem eru að vakna til meðvitundar um misrétti það, sem þær eru beittar, þar sem róttækar vinstri hreyfingar og verkalýðshreyfingin hafa stórlega vanrækt skipulagða baráttu kvenna. Þrátt fyrir þessa stöðu í málefnum kvenna megum við ekki líta fram hjá því, sem þegar hefur verið gert á sviði kvennabaráttu. Þegar Rsh. er ásökuð um skort á <u>beinu starfrænu sambandi</u> við verkalýðsstéttina spyr maður gjarnan hvort verkakonur tilheyri ekki þeirri stétt, því Rsh. hefur alltaf frá byrjun tilveru sinnar haldið uppi merki verkakvenna bæði í riti og ræðu og ráðstefnuhaldi og síðast en ekki síst með gagnrýni á verkalýðsforystuna og á stjórn verkakvennafélaganna og er þá skemmst að minnast samninganna við Danska hreingerningakompaníið, sem olli e ki svo litlu fjaðrafoki í herbúðum stéttasamvinnupáfa.

Af framansögðu má sjá að næsta skref okkar kommúnista í þessum málum er skipulagning verkakvennafélaganna og þeirra jafnréttishreyfinga sem til eru á Íslandi í dag í eina breiðfylkingu gegn arðráni á konum sem yrði í sterkum tengslum við önnur róttæk samtök sósíalista. Það eru til framsækin öfl meðal kvenna sem fullan hug hafa á að tengja kvennabaráttuna við almenna stéttabaráttu, því er það mikilvægt að virkja all r verkakonur til kraftmikillar breiðfylkingar fyrir efnahagslegu, pólitísku og menningarlegu sjálfstæði sínu.

## <u>STEFNA EIK (m-l) Í KVENNABARÁTTUNNI.</u>

Einingarsamtök kommúnista (marx-leninistar) ályktuðu á stofnþingi sínu að hvetja íslenskar konur til að stofna til breiðrar baráttufylkingar um þau baráttumál kvenna sem efst væru á baugi á hverjum tíma.
Við gerum okkur grein fyrir að grundvöllur slíkrar baráttufylkingar yrði ekki sósíaliskur, þessvegna er mikilvægt að sósíalistar og allar framsæknar konur vinni saman. Sé tekið til baráttu gegn tvöfaldri kúgun kvenna með öllum þeim konum og körlum sem vilja heyja slíka baráttu þá er fyrsta skrefi náð.

Baráttina verður því að grundvalla fyrst og fremst á stöðu verkakvenna og annarra láglaunakvenna með samstöðu annars verkafólks sem á í stéttabaráttu. Til þess að slík breiðfylking sjái dagsins ljós og geti starfað á eðlilegan hátt verður að taka mið af því sem þegar hefur áunnist í kvennabaráttunni á undanförnum árum. Það er rangt að álíta, eins og sagt er í grein Neista að " þær konur sem mest hafa starfað að jafnréttismálum hér á landi vilji aðeins ná jafnrétti á við karla til óréttlætisins!

Lítum raunsæjum augum á það sem þegar hefur verið gert og stefnum að því að vekja konur til meðvitundar um stöðu sína og tengsl sín við stéttabaráttuna.

---

FRÉTTIR ÚR STARFI EIK (m-l).

Námshópar í grunnleshring Eik (m-l) í marx-lenínismanum hafa starfað í allan vetur, ungt fólk er í meirihluta- aðallega skólafólk. Leshringnum er skipt í tvennt, eftir þyngd efnisins.

Í sumar er áætlað að reka námshópa, bæði í Reykjavík og á Akureyri. Fr fólki, sem áhuga hefur, bent á að hafa samband við Eik(m-l).

------

Eik(m-l) tók þátt í aðgerðum Víetnam-nefndarinnar í febrúar fyrir utan bandaríska sendiráðið og í baráttufundinum í Háskólabíó í apríl.

-------

Eik(m-l) á aðild að samstarfsnefndinni gegn Union Carbide og tók þátt í mótmælaaðgerðinni í Reykjavík í mars.

--------

Í sambandi við kjaramálafundi stéttarfélaga og síðustu samninga dreifði Eik(m-l) allmörgum útgáfum dreifirita, aðallega við fundarstaði stéttarfélaga, bæði í Rvk. og á Akureyri.

---------

Í marslok hélt Reykjavíkurdeild Eik(m-l) Kynningarfund í Reykjavík. Fjölbreitt menningardagskrá og kynningarávörp voru flutt, en alls sótti fundinn 32 manns.

----------

Akureyrardeild Eik (m-l) hefur starfað af miklun krafti innan Baráttusamtaka launafólks á Akureyri og innan Verkalýðsfélagsins Einingar.

---------

Í apríl sendi Eik(m-l) stuðningskveðju til stofnfundar baráttusamtaka fyrir Fóstureyðingum. Kveðjan var ekki lesin upp á fundinum.

--------

Í apríl sendi Eik(m-l) stuðnings- og baráttukveðjur til Verkalýðsfélags Vestmanneyja og Verkfallsfólks á Selfossi. Ennfremur hafa sa tökin farið tvær söfnunarherferðir fyrir samherjana á Selfossi og sent tæpl. 2o þús. kr.

--------

Fulltrúar Eik(m-l) hafa átt í endalausum viðræðum og þvargi allan aprílmánuð vegna aðgerða 1.maí.

---

# HVAÐ BER AÐ GERA?



## "Vinstri kommúnisminn" - barnasjúkdómur.

Eftir tæpra 3o ára stöðnun í kommúnísku og framsæknu starfi reis ný baráttualda hérlendis í byrjun 8.áratugsins.Samtök,með flokksstofnun að markmiði og sósíalíska byltingu á stefnuskrá sinni,spruttu upp.
Þegar í upphafi voru áhrif vinstri róttæklinga og einangrunarsinna fyrir hendi.
"KFMLr" í Svíþjóð,er stóðu þar fyrir óhugnanlegu klofningsbrölti,áttu forsvarsmenn í KHML/KSML,sem komu því m.a.til leiðar að ógnarstefna "KFMLr" var ráðandi í KHML/KSML um tíma.
Trotskískir talsmenn uppgjafastefnu "4.alþjóðasambandsins" leyndust í Fylkingunni.

Enda fór svo að smásamtökin náðu afar litlum árangri.Þau náðu ekki til fjöldans,tóku oftar ranga afstöðu en rétta og einangruðust við hópa 4o - 6o manna,aðallega skólafólks.Kokhreystin varð að einangrunarstefnu - "byltingarafstaðan" slík að horft var framhjá dægurbaráttunni og ekki mátti "lægja marxismann niður á stig fjöldans" eða "fórna byltingunni fyrir krónubaráttu og brauðpólitík".

Aðalvillur róttæklinganna eru og voru þessar:

1. Afneitun á samfylkingarbaráttu með nægum lágmarksgrundvelli,sem ekki inniheldur framsæknustu kjörorð kommúnista(Vietnamnefndin,samfylk.1.maí ofl)
2. Tilhneiging til að nota stéttarfélög sem ræðupall fyrir kommúnismann eingöngu,eða sniðganga þau alveg.
3. Afneitun á nauðsyn fjöldabaráttu fyrir lífskjarabótum,en ofuráhersla á byltingaráróður.
4. Rangt mat á bandamönnum verkalýðsins,t.d.bændum og sjálfseignasjómönnum.

Yfirtök "vinstrikommúnismans" í hreyfingunni til vinstri við Alþýðubandalagsrekaldið hafa valdið ómældu tjóni.Þau hafa tafið framþróun sósíalískra afla,staðið í vegi fyrir fjöldabaráttu og verið vatn á myllu afturhaldsins.
"Vinstri kommúnisminn" er því alvarlegt vandamál á Íslandi.
T.d.álíta EIK(m-l) að KSML hafi ekki gert afgerandi upp við vinstri villur sínar og þau séu því ekki marx-lenínísk samtök enn sem komið er.Þau hafa hins vegar þróast mjög jákvætt,allt frá síðust áramótum.Klofningsbrotið KSML(b) er ekki hægt að taka alvarlega.

EIK(m-l) álíta Fylkinguna hins vegar gott dæmi um klíku slagorðasósíalisma og upphlaupa - en hún hefur nær einangrað sig á síðustu mánuðum og tafið eða eyðilagt allt róttækt samstarf.Við óbreyttar aðstæður verður ekki um samstarf við hana að ræða.

Um leið og brýna nauðsyn ber til að þróa kommúníska pólitík við íslenskar aðstæður verður að berjast hart gegn allri hentistefnu og "vinstri-kommúnisma,uppræta hann - en vinna og samfylkja með sérhverjum framsæknum aðila, t.d.KSML.
Grundvöllurinn er fjöldabarátta eftir leiðum stéttabaráttunnar og marxlenínisminn með fræðum kínverskra kommúnista og Maó Tsetungs.

EIK(m-l) er eina skipulagða og eindregna andsvarið við "vinstrikommúnismanum" og þeirri skólaspeki millistéttarinnar,sem hann byggir á.

---

## Eik (m-l) útilokað frá umræðu.

Verðandi - félag róttækra í háskólanum - hélt eftir nýárið nokkra umræðufundi um stjórnlist og baráttuaðferð sósíalista á Íslandi.
Alþýðubandalagið, Fylkingin og KSML voru boðuð til þeirra funda.
Eftir að EIK (m-l) voru formlega stofnuð og höfðu gefið út almenna pólitíska stefnuskrá sína sóttu samtökin um aðild að umræðunum.
Verðandi samþykkti það og leitaði samþykkis hinna þriggja vinstri hreyfinga. Alþýðubandalagið taldi ekkert því til fyrirstöðu. Fylkingin sömuleiðis, ef öllum öðrum vinstrihópum svo sem Sósíalistafélagi Reykjavíkur væri boðið um leið. En KSML, sem útúðaði útvarpsráði á sínum tíma fyrir gerræði er KSML var"fryst úti" frá kosninga útvarpi, sagði blákalt nei.
Helstu rök sem frá þeim heyrðust: EIK (m-l) eru "eiginlega ekki til", svo "fámenn", hafa "starfað svo stutt", gefa ekki út mánaðarblað osfrv.osfrv.
En fulltrúi KSML í umræðunum sá þó sérlega ástæðu til að nota dágóðan hluta ræðutíma síns til að gagnrýna EIK (m-l), sem eru "eiginlega ekki til".

## Ég sver - ég lofa.

Forysta Alþýðubandalagsins hefur fyrir löngu endurskoðað sannindi sósíalískrar fræðikenningar og þróað útþynntar hégiljur um að flokkurinn færi alþýðunni sigra með baráttu bitlingasnata á þingi. Barátta fólksins sjálfs er "byltingarrómantík". Flokkurinn hefur fetað dyggilega í fótspor "kommúnistaflokka" á Vesturlöndum. Þeir urðu endurskoðuninni að bráð, hentistefnan sigraði undir forystu Kremlverjanna hans Krúsjeffs.
En Alþýðubandalagið sker sig þó úr að einu leyti - og er þá ekki vegið að mörgu ágætu fólki sem styður bandalagið. Flokkurinn sver af sér öll tengsl, hugmyndafræðileg eða önnur, við fyrrverandi bræðraflokka, t.d. í Sovétríkjunum. Hann segist ekki taka afstöðu t.d. með eða á móti sósíalískri uppbyggingu Kína. Samt birtir Þjóðviljinn aðeins neikvæðar greinar um Kína, aldrei fréttir Hsínhua, kínversku fréttastofunnar, en margur fróðleiksmolinn á síðum blaðsins er merktur APN - Novosti í Moskvu.

---

Fyrirhugað er þing allra endurskoðunarflokka í Varsjá. Þar á að tryggja áframhaldandi útþynningu baráttunnar undir róttæku orðagjálfri. Og Alþýðubandalagið sendi "bróðurlegar kveðjur" til undirbúningsfundar þingsins. Án þess að geta þess opinberlega.
Flokkurinn virðist hafa efni á að styðja þá flokka sem stóðu að innrásinni í Tékkóslóvakíu. Vonandi aðeins forystan, ekki almennir félagar.

## Þjóðviljinn og þjóðarheildin.

-"hagsmunir verkalýðsins eru hagsmunir þjóðarinnar"-, skrifar leiðarahöfundur Þjóðviljans. Alþýðuhetjurnar í ritstjórn Þjóðviljans muna s stundum eftir því að atvinnurekendur tilheyra þjóðinni, til viðbótar vinnandi alþýðu - helst á tyllidögum fyrir kosningar. Það hlýtur því að vera augljóst að verðtryggt kaup og pólitísk völd verkalýðsins fara saman við hag atvinnurekenda. Eða hvað ?
Líka málmblendiverksmiðja Magnúsar. Og samningamakk Eðvarðs um breytingar á þrælalögum vinnumálalöggjafarinnar til hins verra. Eða skuttogarakaup Lúðvíks handa bröskurum. Jú, hagsmunir þjóðarinnar eru svo sannarlega hagsmunir verkalýðsins.
Svo er það þjóðinni mikill hamingjuvísir að vita um óskabörn þjóðarinnar af Þjóðviljanum á þingi með 25o þús. á mánuði fyrir að hýrudraga "þjóðina" með afnámi vísitölubóta 1. júní 1974.
Verkalýðsblaðið óskar Þjóðviljanum til hamingju með þjóðina og vonar að hann reyni í lengstu lög að vera bæði talsmaður atvinnurekenda og vinnandi alþýðu. Krötum hefur reyndar alltaf mistekist það þegar á reynir.

# GEGN HEIMSVALDA-STEFNUNNI



UNION CARBIDE

Bygging járnblendiverksmiðju íHvalfirði er enn eitt dæmi þess hvernig þingmenn svonefndra "verkalýðsflokka" hafa svikist aftan að alþýðu landsins. Þessir þingmenn og ráðherrar hafa undantekningarlítið stutt auðvaldið af alefli við að koma upp fyrrnefndri verksmiðju. En hvers vegna er verksmiðja sem þessi ögrun við alþýðu landsins?

1. Samvinna ríkisvaldsins og Union Carbide eykur veldi stóratvinnurekenda, styrkir tengsl við bandarískt auðvald og skerðir frekar pólitískt og efnalegt sjálfstæði Íslands.

2. Pólitískt og efnalegt sjálfstæði er vinnandi alþýðu nauðsynlegt í baráttunni fyrir þjóðfélagslegum völdum og réttlátu þjóðfélagi. Allir viti bornir menn hljóta að sjá að miklu erfiðara er að heyja stéttarbaráttuna við bæði erlent og innleng auðvald heldur en aðeins innlent auðvald.

3. Bygging járnblendiverksmiðju í Hvalvirði eykur enn samþjöppun á suðvesturhorni landsins. Uppbygging Stór Reykjavíkursvæðisins og nágrennis er í fullum gangi á meðan allt er látið drabbast niður á landsbyggðinni. Með byggingu járnblendisverksmiðjunnar er stefnt að nauðungarflutningi vinnandi alþýðu frá dreifbýlinu til suðvesturhornsins. Fjölga á verkalýð og herða arðránið.

4. Union carbide framleiðir hergögn og aðrar vítisvélar sem notuð hafa verið gegn alþýðu þriðja heimsins einkum Indókína, Chile, Angola og víðar.

5. Verksmiðjan er mengunarvaldur undir auðvaldsstjórn.

Eik (m-l) er á móti byggingu járnblendiverksmiðju í Hvalfirði fyrst og fremst vegna áðurnefndra ógnana við alþýðu landsins og hafði frumkvæði að mótmælafundi þeim sem haldinn var á Lækjartorgi þann 14. mars.

Um undirbúning aðgerðanna.

Mjög illa gekk að ná samkomulagi um fyrrnefndar aðgerðir og bar þar einkum til óheiðarleiki og lygaþvættingur Fylkingarinnar. Einnig voru stúdentar mjög tregir til aðgerða fyrr en þeir sáu að hin þingræðislega barátta dygði ekki. Loks náðist þó samkomulag með aðilum samstarfsnefndarinnar gegn Union Carbide um aðgerðirnar, eftir nokkurt nagg og þóf. Aðilar samstarfsnefndarinnar höfðu skipt með sér verkum og fulltrúi Fylkingarinnar hafði lofað að Fylkingin myndi m.a. taka að sér að fjölrita fundarboð og dreifa þeim í menntaskólana. En daginn eftir komu þau skilaboð frá Fylkingunni að hún sæi sér ekki fært að taka þátt í þessum aðgerðum þrátt fyrir að fulltrúí hennar í samstarfsnefndinni

hefði samþykkt málefnagrundvöllinn kvöldið áður. Þetta er annað dæmið um óheiðarleika og skepnuskap Fylkingarinnar í þessu máli. Aðilar samstarfsnefndarinnar syrgðu ekki brotthlaup Fylkingarinnar en störfuðu ötullega að undirbúningi aðgerðanna. Á mótmælafundinum svíkst Fylkingin aftan að samstarfsnefndinni og reifir þar lygum og þvættingi um samstarfsnefndina og jafnframt sem hún kemur með aumlegt yfirklór um hvers vegna þeir geti ekki tekið þátt í þessum mótmælaaðgerðum. Þetta er þriðja dæmið um óheiðarleika og skepnuskap Fylkingarinnar.

Á innifundinum í Tjarnarbæ eftir mótmælafundinn reis upp helsta kerling Fylkingarinnar, Gestur Ólafsson, og flutti þar svo langa og leiðinlega ræðu að flestir fundarmanna flúðu út undir bert loft. Hélt hann áfram fyrri iðju Fylkingarinnar að rangtúlka starfsemi samstarfsnefndarinnar og kvarta undan því hvað Eik (m-l) séu vond samtök. Þetta er fjórða dæmið um óheiðarleika og skepnuskap Fylkingarinnar. Í 3. tbl. Neista, reynir Fylkingin ennþá að klóra í bakkann varðandi afstöðu sína til Union Carbide og birtir hún gagnrýni á grundvöllinn en sú gagnrýni kom að vísu aldrei fram fyrr en fulltrúi Fylkingarinnar hafði samþykkt hann. Í Neista stendur um málefnagrundvöllinn:"Þar sem örlar á stéttarafstöðu er um að ræða setningu sem fulltrúi Fylkingarinnar barði í gegn. Var það í raun eina breytingin sem hann fékk framgengt". Þetta skilja flestir án efa þannig að fulltrúi Fylkingarinnar hafi komið með fjöldan allan af breytingartillögum sem aðrir nefndarmenn hafi svo fellt. Hið sanna í þessu máli er að fulltrúi Fylkingarinnar kom aðeins með þessa einu breytingartillögu við málefnagrundvöllinn go þessi breytingartillaga var samþykkt mótatkvæðalaust en ekki "barin í gegn" eins og stendur í Neista. Í nefndri grein í Neista er ráðandi vinstri villa og hugmyndafræðileg lágkúra svo mikil að hryggilegt er til þess að vita að samtök, sem fjöldi róttæks fólks batt vonir við fyrir einu ári, skuli hafa þróast í einu vetfangi út í forarpytt vinstri hentistefnunnar.

Gagnstætt óheiðarleika og skepnuskap Fylkingarinnar ber að virða dugnað stúdenta og KSML-ara við undirbúning þessarar aðgerða. Einstaklega ánægjulegt er að sjá KSML koma upp úr sama forarpyttinum og Fylkingin er komin ofan í.

## LANDHELGIN

Á hafréttarráðstefnunni í Karakas snérust Sovétríkin gegn sérhverri tillögu þjóða þriðja heimsins og smærri strandríkja um óskert yfirráð yfir 2oo mílna efnahags- og fiskveiðilögsögu. Kremlverjum var sérstakur þyrnir í augum sú krafa að þjóðir þessar hefðu lögsögu yfir siglingar um þau svæði. Skömmu síðar neituðu þeir að viðurkenna Genfarsáttnálann frá 1959 um skiptingu hafsvæða eftir miðlínu milli landa. Sovétríkin heimta nú 16o þús. ferkm. svæði við Norður-Noreg, sem er á yfirráðasvæði Noregs skv. sáttmálanum.

Þessi tvö atriði eru enn skýrari dæmi en ella um yfirgang "alþýðuvinanna"í auðklíku Sovétríkjanna þegar þess er minnst að Sovétríkin og Pólland greiddu atkvæði gegn útfærslu íslensku fiskveiðilögsögunnar í 5o mílur fyrir Haag-dómstólnum í fyrra.

Aldrei má gleyma að tíunda alla andstæðinga alþýðunnar í baráttu hennar fyrir framtíðarhag sínum og sjálfræði þjóða. Þjóðviljinn gat aldrei um afrek "alþýðuvinanna".

## Útfærslan í 2oo mílur.

Í sumar mun ríkisstjórn Geirs Hallgrímssonar samþykkja útfærslu íslenskrar fiskveiðilögsögu í 2oo mílur.

Að sögn talsmanna útgerðarmanna, auðherra og Geirs er það gert "af nauðsyn" fyrir þjóðarhag. Þessi "nauðsyn" er ekkert annað en brýn þörf atvinnurekenda fyrir stærri hluta af sí minnkandi afla. Gróðinn er í hættu - afleiðingin er aukin rányrkja íslenskrar stórútgerðar. Enda sýna nýjustu aflatölur að íslensk skip taka allt upp sem erlendir ná ekki í, eftir að leyfilegt er að taka kóð, sem eru 4o cm að lengd.

"Þjóðarhagurinn" er ekkert annað en auðvaldshagur. Hagsmunir vinnandi alþýðu eru vissulega fólgnir í baráttu fyrir einhliða útfærslu í 2oo mílur, en aðeins ef henni fylgir öflug fjöldabarátta sjóvinnufólks, landvinnufólks og vinnandi alþýðu almennt gegn erlendri og íslenskri rányrkju.

Samherjar,

Undir sumar verður að stefna að uppbyggingu samfylkingar fyrir hag vorum í landhelgismálinu. Grundvöllur hennar ætti að vera:

TIL BARÁTTU FYRIR ÓSKERTUM YFIRRÁÐUM YFIR 200 MÍLNA HAFSVÆÐI UMHVERFIS ÍSLAND. - TIL BARÁTTU GEGN ERLENDRI OG INNLENDRI RÁNYRKJU.

## "NÚTÍMA" ÞRÆLASALA HEIMSVALDALANDANNA.

Ekki alls fyrir löngu var auglýst í Morgunblaðinu eftir járniðnaðarmönnum til starfa í Noregi gegn svimandi háum launum. En ekki er allt gull sem glóir. Innflutningur erlends vinnuafls er nú bannaður í Noregi Opinberlega á það að heita að innflutningsbannið sé sett til verndar norskum vinnumarkaði, en í raun er það tæki einokunarauðvaldsins til að auka arðrán og kúun á erlendum verkamönnum, sem haldið er áfram að flytja til Noregs eins og auglýsingin í Morgunblaðinu sannar. Til þess að koma innflutningnum á nokkurn lagagrundvöll eru gjarnan stofnuð fyrirtæki, t.d. sænsk, sem taka að sér verkefni í þágu norskra fyrirtækja aðallega í olíuiðnaðinum (borpallasmíðar o.fl.) Sjálfsagt geta norsku fyrirtækin sagt erlendu verktökunum upp verki með stuttum fyrirvara gerist verkamennirnir óþægir. Þeir geta því ekki beitt verkfallsvopninu, nema þeir vilji samstundis til síns heima. Þetta fengu 25 júgóslavneskir verkamenn í Malmö að reyna. Þeir fengu ekki borgað skv. samningi og hafði fyrirtækið sem þeir voru í vinnu hjá "Lund Sveiseindurstri" dregið af þeim sem svaraði 4 1/2 milljón ísl. króna á þrem vikum. Verkamenn þessir kröfðust launa sinna og tóku skrifstofu fyrirtækisins því til áréttingar. Lögreglan svaraði með því að handtaka fjóra og vísa úr landi, en hinir fengu farmiða að landamærunum, en fyrirtækið hélt hinsvegar laununum. Til að koma í veg fyrir samstöðu norsku og erlendu verkamannanna fengu norsku verkamennirnir útborgað óaðfinnanlega. Þess má ennfremur geta að oft er vinnutími erl. verkamannanna óheyrilega langur. Það er því full ástæða til að hvetja íslenska járniðnaðarmenn til að hugsa sig vel um áður en þeir taka gylliboðum. Verkalýðsblaðið vill heldur hvetja þá til að íhuga hvers vegna laun þeirra eru svo miklu lægri en starfsbræðra þeirra á hinum Norðurlöndunum og í framhaldi af því efla baráttu sína gegn íslenskum kapítalistum. Járniðnaðarmenn eða annað alþýðufólk ber ekki ábyrgð á uppdráttarsýki og kreppu ísl. auðvalds, en hlýtur að bera hátt kröfuna um mannsæmandi laun og næga atvinnu í eigin landi.

(að nokkru byggt á Klassekampen).

# 1. MAÍ ÁVARP EIK(M-L)

EININGARSAMTÖK KOMMÚNISTA ( M-L ) SENDA VINNANDI ALÞÝÐU ÍSLANDS

EFTIRFARANDI ÁVARP, Í TILEFNI ALÞJÓÐADAGS VERKALÝÐSINS :

---

## I. Kjarabaráttan.

Íslensk kjarabarátta einkennist fyrst og fremst af geysifreklegum árásum atvinnurekenda á kjör hins almenna launþega í gegnum ríkisvaldið.

Þetta gerist með dýrtíðarpólitík sem útskýrð er með "viðskiptahalla" og "erlendum verðhækkunum" osfrv. Þetta er að mestu fals. Það er íslenska einokunarauðvaldið sem vísvitandi beitir verðbólgunni til að þrýsta niður rauntekjum launþega. Kaupmáttur launa verkafólks stendur nú lægra en hann hefur gert allt tímabilið frá síðari heimsstyrjöld.

Af hverju stafar þessi afturför? Er það hnignandi burðarþol atvinnuveganna ?

Við verðum að viðurkenna að það hefur ansi lítið reynt á þetta "burðarþol". Nýgert samkomulag við atvinnurekendur hjó ekki stærri bita af gróða þeirra en svo að þeir sjálfir tjáðu sig opinberlega samþykkir því sem skynsamlegum úrslitum!! Aldrei fyrr hefur verkalýðshreyfingin fengið yfirlýst samþykki og ánægju atvinnurekenda á gerðum samningi! Þess vegna staðhæfum við :

Það er fyrst og fremst innra ástand verkalýðshreyfingarinnar en ekki ytri efnahagsskilyrði sem valda áðurnefndri afturför. Ríkjandi ástand í íslenskri verkalýðshreyfingu einkennist af stéttasamvinnustefnu í kjaramálum og fámennis - og miðstjórnarvaldi í starfsaðferðum og innri uppbyggingu.

Verkamaður nokkur orðaði það svo að meginvandamál íslensks verkalýðs væri Björn Jónsson! Verkalýðsforinginn sem segist m.a. ekki kæra sig um að fá kjaraskerðinguna fullbætta; það sé verðbólguhvetjandi !

Auk þess að viðhafa þennan málflutning atvinnurekanda hefur verkalýðsforystunni tekist með gerræðislegri miðstjórnun og skriffinnsku að lama starfsemi hinna einstöku stéttarfélaga og gera þau að uppþornuðum skriffinnskustofnunum sem gegna í engu hlutverki sínu í stéttabaráttunni.

Óvirkni félaganna og stéttarsamvinnustefna forystunnar hafa svo mjög dregið úr sjálfstrausti og stéttarvitund íslensks verkalýðs.

Fólk eins og Alþýðubandalagsforystan heldur fram að framfarir fyrir verkalýðinn verði að gerast með auknum þingstyrk verkalýðsflokkanna (þá f. og fr. Ab.). Þetta er hættulegur málflutningur.

Við minnumst þess að þegar "vinstri" stjórnin fór frá í vor var árangur kjarasamninganna frá í mars þegar að engu orðinn og stjórnin hafði "frestað" vísitölubótum. Að beina verkalýðsbaráttunni inn á hið borgaralega þing eru svik við verkalýðinn ; slík barátta er eftir leikreglum auðvaldsins.

Helsta ástæðan fyrir hnignun verkalýðshreyfingarinnar og veikri stöðu verkalýðs er einmitt að hin sósíalíska forysta hljóp frá starfsvettvangi sínum meðal fjöldans og uppí þing.

Því hefur um allangt skeið enginn sá pólitíski aðili verið til sem skipulegði hinn vinnandi fjölda í daglegri stéttabaráttu.

Þingfulltrúar, fleiri eða færri, virkja ekki afl verkalýðsstéttarinnar og við sjáum að vaxandi afskipti ríkisvaldsins af kjarasamningum hafa í öllum tilfellum gegnt því hlutverki að skerða kjörin og ber því að berjast gegn þeim. Eina afl launafólksins er afl samtakanna.


Framh. á bls. 15.

Verkefni sannra verkalýðssinna er því ekki að snúa sér að þingbaráttu heldur einmitt að hefja uppbyggingu sterkrar verkalýðshreyfingar á grundvelli baráttustefnu gagnvart atvinnurekendum jafnt sem ríki.
En stéttasamvinnustefnan er ekki eina aflið í íslenskri verkalýðshreyfingu. Aldrei fyrr hefur slík óánægja með verkalýðsforystuna komið fram sem í nýafstöðnum samningum. Vaxandi hluti verkalýðshreyfingarinnar snýst gegn stefnu og starfsháttum forystunnar. En þessi andstaða er yfirleitt óskipulögð, veik og lítt fær um að standa á eigin fótum.
Hvað um það : Verkefni verkalýðssinna er að berjast gegn alræðisvaldi"þríhyrningsins" VSÍ - ASÍ forysta - ríkisstjórn - í kjaramálum, en beita sér fyrir sjálfstæðri skipulagningu launafólks sem stefni að því að taka málin í eigin hendur, sem efli og byggi upp hin ýmsu nauðsynlegu fjöldasamtök alþýðunnar og ekki síst ; endurreisi stéttarfélögin sem baráttutæki !

II. Andheimsvalda - og þjóðfrelsisbarátta.

Það er við meiri áþján að glíma en bara atvinnurekendur og samtök þeirra. Er þar fyrst að telja erlenda heimsvaldaásælni; efnahagslega, pólitíska og menningarlega. Innanlands er þessi ásælni studd f. og fr. af einokunarauðvaldinu, sem leitar eftir samvinnu og samruna við erlenda heimsvaldasinna til að hagræða og auka eigið arðrán, bæta samkeppnisstöðu og tryggja gróða sinn hernaðarlega.
Einokunarauðvaldið leitar eftir auknum tengslum við Efnahagsbandalag Evrópu, sem kostaði og mun enn kosta alvarlega eftirgjöf í landhelgisdeilunni, hleypir í vaxandi skömmtum erlendu auðmagni inní landið og treystir böndin sem tengja okkur við NATO.
Íslenska þjóðin er lítil, en heimsveldin stór og ásælni þeirra táknar gífurlega ógnun við sjálfsákvörðunarrétt og þjóðlegt sjálfstæði Íslands.
Eitt er það sem gefur þessum 1. maí sérstakan hátíðarblæ um allan heim og það eru einmitt atburðir á sviði andheimsvaldabaráttunnar. Það er hinn endanlegi sigur alþýðu Kambodíu yfir bandarísku heimsvaldastefnunni og leppum hennar, og sú staðreynd að frelsisherirnir í Suður - Víetnam eru í þann mund aðknésetja morðsjúka kanaleppana í Saigon.
Sigur Indókínaþjóðanna yfir höfuðbakjarli heimsafturhaldsins er himinhrópandi fordæmi kúguðum þjóðum veraldar, sem smám saman skipa sér í sveitir gegn heimsvaldaásælni, sérstaklega risaveldanna tveggja, Bandaríkjanna og Sovétríkjanna.
Sigurinn er íslenskum andheimsvaldasinnum mikil örvun til að samfylkja öllum þjóðlegum öflum til baráttu gegn heimsvaldaásælni hér á landi og við land, og baráttu fyrir tryggum sjálfsákvörðunarrétti þjóðarinnar.

III. Sósíalisminn.

Enhvert stefnir öll þessi barátta stéttanna og allt þetta stríð ? Auðvaldsheimurinn er nú í alvarlegri kreppu sem sannfærir æ fleiri um að út úr vandamálum auðvaldsþjóðfélagsins er aðeins ein leið ; sósíalisminn. Við í EIK (m-l ) höldum fram, að þótt ná megi með baráttu fram vissum umbótum og sigrum innan ramma auðvaldsþjóðfélagsins, muni þrengingar hins vinnandi manns ekki taka enda fyrr en, eftir síharðari stéttabaráttu, að hinn vinnandi fjöldi steypir veldi borgarastéttarinnar í sósíalískri valdbyltingu.
Ekki fyrr en launaþrælkunin verður afnumin og kúgunarkerfi auðvaldsins niður rifið, verður atvinnu - og félagslíf sniðið fyrir fólkið og ekki gróðann.

Glæsilegir árangrar sósíalísku landanna, t.d. Kína og Albaníu, sannfærir okkur öllu öðru betur um hvert halda skal.

## IV. Kommúnistaflokkur.

Við í EIK (m-l) erum kommúnistar og teljum að íslensk alþýða þurfi á kommúnistaflokki að halda til eflingar baráttunni, hvort sem það er barátta fyrir efnahags - og félagslegum kjörum, andheimsvaldabarátta eða hin sósíalíska.

Það sjáum við á því að baráttu íslenskrar alþýðu hefur hnignað nokkurn veginn samfellt frá því Kommúnistaflokkur Íslands var lagður niður árið 1938.

Þess vegna stuðlum við að því annars vegar að sameina alla íslenska byltingarsinna í kommúnistaflokk og hins vegar tökum þátt í og eflum stéttabaráttuna í öllum hennar formum.

Á báðum þessum sviðum bjóðum við öllum framfarasinnuðum mönnum til samstarfs við það að gagnast íslenskri alþýðu.

Að lokum : Vinnandi alþýða Íslands !
Í okkar þjóðfélagi sem byggir á arðráni á hinum vinnandi fjölda koma eingar framfarir á silfurfati !
Baráttan ein færir okkur árangur og samtakamátturinn er okkar eina vopn .
Stéttasamvinnustefnan er versti svikavefur samtímans - og lausn vandamála okkar kemur ekki ofan úr þingi !
Þessvegna :
Sameinumst 1. maí á grundvelli stéttabaráttunnar.

---

## EIK (m-l) AUGLÝSIR :

Verkafólk,- skólanemar,- aðrir úr hópi vinnandi alþýðu !

Einingarsamtök kommúnista (m-l) eru ung samtök fólks úr vinnandi stéttum. Þau setja sér það mark að sameina íslenska kommúnista og vinnandi alþýðu í stéttabaráttunni fyrir mannsæmandi kjörum ogfullum þjóðfélagsvöldum vinnandi alþýðu.
Í ljósi þess stefna samtökin að fyrsta áfanga baráttunnar - stofnun marx - lenínísks kommúnistaflokks.

Þekking á stéttabaráttunni og réttri baráttuaðferð er hverjum framsæknum manni nauðsyn. Af henni, meðal annars, leiðir árangursríkt starf. Daglegt starf einingarsamtakanna er því fyrst og fremst fólgið í fræðslustarfi og þátttöku í daglegri baráttu fjöldans.

Takið þátt í þessu starfi !

Kynnið ykkur fræðslu um : - íslenskt þjóðfélag og stéttaskiptingu,
- hlutverk stéttarfélaganna og ástand,- frelsisbaráttu erl. alþýðu,
- ríki sósíalismans í Kína, Albaníu og víðar ,
- marxismann og lenínismann .

Hafið samband við :
EIK (m-l), pósthólf 541, Akureyri og í Reykjavík í síma 16753.